Séra Jón Bjarnason:

# sland að blása upp.

## Fyrirlestr.

**Verð 25 aurar.**

Reykjavík.

tsala í *Bókverzlun Sigf. Eymundssonar.*

1888.

# ÍSLAND AÐ BLÁSA UPP.

---

## Fyrirlestr,

sem

séra Jón Bjarnason

**flutti á Mountain í Dacota innan Bandaríkja,**
**meðan stóð á 4. ársþingi hins ev. lút. kirkjufélags**
**Íslendinga í Vestrheimi,**
**hinn 26. dag Júnímánaðar 1888.**



Reykjavík.
Aðal-útsala í *Bókverzlun Sigfúsar Eymundssonar.*
Prentsm. Sigf. Eymundssonar.
1888.

Eg ætla að tala nokkuð um Ísland og hagi hinnar íslenzku þjóðar í kvöld. Mér fannst það efni liggja næst mér nú, þar sem vér erum þessa dagana að halda hér ársþing kirkjufjelags vors, sem minnir oss svo áþreifanlega á það, að vér erum Íslendingar og eigum þó eitthvað í eigu vorri, er oss hefir veitzt heima á Íslandi, og vert er að varðveita einnig hér í miklu auðugra og og blómlegra landi. — vert að gróðrsetja í hinum frjósama aldingarði þessarar heimsálfu, vert að berjast hjer sameiginlega fyrir, vert með sameinuðum kröftum að koma inn í hið amerikanska þjóðlíf. Oss burtfluttum Íslendingum, er heimili eigum hér vestan hafs, er brugðið um það af þeim sem öðrum fremr þykjast nú vera íslenzkir þjóðernismenn heima á Íslandi, að vér höfum stokkið að heiman fyrir þá sök, að oss skorti algjörlega íslenzka ættjarðarást. Eg fyrir mitt leyti þykist nú að minnsta kosti hafa eins hlýjan hug til þjóðar minnar og þeirra stöðva, þar sem eg var borinn og barnfæddr, eins og allr þorri pólitisku mannanna á Íslandi, sem helzt ásaka oss um

ræktarleysi við föðurland vort. En berist það sem eg ætla nú að segja í kvöld. heim til hinna viðkvæmu pólitisku eyrna á Íslandi, þá geng eg nærri því að því vísu, að út úr því takist ýmsum þar að draga þá ályktun, að sá sem slíkt segir, geti þó með engu móti verið sannr Íslendingr, því eg sé hér að níða bæði Ísland og hina íslenzku þjóð. Það er nefnilega enginn **Ídealismus,** sem eg ætla hér að koma með, heldr tómr **Realismus,** snertandi Ísland og vora íslenzku þjóð.

Eg ætla fyrst að tala um náttúruna á Íslandi, tala um það, hvernig hún var til forna og hvernig hún er nú. „Landið **var** fagrt og frítt“ — í fornöld, í landnámstíð. Landið í heild sinni **er** ekki lengr fagrt og frítt. Það er margr fagr og inndæll blettr á landinu nú, en skoðað í einni heild er það fremr ófagrt og ófrítt. Fornsögurnar íslenzku skýra svo frá, að í landnámstíð hafi Ísland allt verið skógi vaxið milli fjalls og fjöru, og þó að skógrinn íslenzki vitanlega hafi aldrei verið nema tiltölulega smávaxinn, þá var hann þó *svo* stórvaxinn, að sumstaðar voru smíðuð skip, fær til þess að sigla á þeim landa á milli, úr íslenzkum efnivið. Fjallshlíðarnar, holtin og hæðirnar og stórir flákar af undirlendinu hafa verið eitt saman hanganda skógland. Auðvitað hefir skógrinn íslenzki verið enn þá miklu meiri áðr en Ísland fannst og landnám forfeðra vorra hófst þar; en það hefir þó í landnámstíð verið svo mikið af skógi með ströndum fram á allri umgjörðinni kring um hinar alveg óbyggilegu fjalldyngjur, jökulbreiður og sandeyðimerkr um miðbik landsins, sem nægði

til þess að gjöra það, skoðað utan frá, í heild sinni fagrt og frítt. Nú liggr þessi umgjörð, sem forfeðr vorir gjörðu að byggistöð sinni, alveg nakin og ber; nú getr ekki heitið, að nokkuð það er skógr megi kallast sé til á Íslandi. Alnakið land getr naumast fagrt heitið. Það er auðvitað, að skáldið og náttúrufræðingrinn getr ávallt fundið vissa fegrð við hvað eina í ríki náttúrunnar, er fyrir augun ber. En eg tala nú í þessu sambandi hvorki sem skáld né náttúrufræðingr, haldr blátt áfram sem maðr, fer hér að eins eftir því sem í daglegu tali almennings er kallað fegrð og fríðleikr. Og þá segi eg það sem eg sagði, að Ísland, eins og það er nú orðið útleikið, er í heild sinni ekki lengr fagrt. Ísland er ekki það sem það áðr var. Eg hefi ferðazt hringinn í kring um Ísland, bæði á sjó og landi, og veit þannig nokkurn veginn, hvernig vel flestar sveitir á Íslandi líta út. Og þó er eg hvergi á Íslandi eins vel kunnugr eins og á því svæði, sem lang-fæstum af yðr, er til mín heyrið í kvöld, er kunnugt,—á strandlendinu langa milli Jökulsár á Sólheimasandi eða Fúlalækjar, eins og hún hét áðr, og Lónsheiðar, eða með öðrum orðum í Skaftafellssýslu. Vestast á þessu strandlendi er sú sveit, Mýrdalrinn, sem lengst nær til suðrs á Íslandi; enda er enginn vafi á því, að á þessu svæði er jafn-mildari veðrátta en í nokkrum öðrum sveitum á Íslandi, og hefði þar ekki verið alveg hafnlaust, myndi þetta hérað í fornöld hafa verið hið lang-bezta á

öllu landinu. En Skaftafellsþing[1] má nú heita auðn ein hjá því sem áðr var. Og sú auðn er ógrleg. Eldgosin, jökulhlaupin og hinn eilífi vatnagangr hafa á þessu svæði nálega skafið allt hold og hamsa af líkama landsins. Breiðamerkrsandr, Skeiðarársandr, Brunasandr, Mýrdalssandr — auk enn þá fleiri smærri sanda—segja með nöfnum sínum til, hvað nú er orðið úr þessu fegrsta undirlendi, sem var á landinu. Það er satt, það var vottr til þessara sanda um og rétt eftir landnámstíð. Breiðársandr var þá til, og í Njáls-sögu er nefndr Lómagnúpssandr, sem síðan varð að Skeiðarársandi; en þeir voru sem ekkert að reikna í

1) Í **Tímariti** Bókmenntafélagsins, 3. bd., er ritgjörð eftir dr. Jón Þorkelsson um bók dr. **Maurer's**: „Upphaf allsherjar ríkis á Íslandi", þar sem meðal annars er leitazt við að sýna, að Skaftafellsþing hafi að líkindum upphaflega ekki heitið svo, heldr *Skaftárfellsþing*, og viðvíkjandi þingstaðnum í því þingi er þar sagt, að það sé „alls eigi víst að hann hafi verið hjá bœnum *Skaftafelli í Bœjarhreppi*", og þetta stutt með þeirri athugasemd, að þar finnist nú engin merki til þingstaðar, og er vitnað í Íslandslýsing **Kaalunds** þessu til staðfestingar. Út af þessu skal þess getið hér, að í Bœjarhreppi, sem er sama sem sveitin Lón austast í Skaftafellssýslu, er ekki og hefir aldrei verið til neinn bœr með nafninu Skaftafell, heldr er Skaftafell vestasti bœr í Öræfum, óraveg fyrir vestan Lón, og stendr bœrinn nú uppi í fellinu, sem eins heitir, því að undirlendið allt fyrir neðan fellið, þar sem bœrinn stóð áðr, er gjörsamlega eyðilagt af Skeiðará og nú fyrir löngu orðið einn partr af Skeiðarársandi. Það stendr því ekki til, að nein merki finnist til þingstaðar í Skaftafelli, því það er langt síðan nokkurt merki var til upp á þann stað, þar sem bœrinn að Skaftafelli áðr stóð.

*J. Bj.*

samanburði við þær víðáttumiklu sandeyðimerkr, sem nú hafa út frá þeim vaxið. Kári Sölmundarson bjó með seinni konu sinni, Hildigunni, að Breiðá, langt, langt út á Breiðamerkrsandi, eftir því sem nú er, og Breiðamerkrfjall, sem bœrinn hefir eflaust staðið rétt undir, er nærri því komið á bólakaf í jökli, og jökullinn á parti þar á sandinum kominn svo nærri sjó, að naumast verðr komizt á milli hans og sjávar. Að landið hafi í fornöld verið fagrt og frítt, það sé eg hvergi betr heldr en í Skaftafellssýslu, með allri þeirri eyðilegging, viðrstyggð eyðileggingarinnar mætti vel segja, sem yfir þann landspart hefir gengið, því blettirnir, sem þar eru eftir óeyddir, eru margir hverjir sýnishorn upp á hina mestu náttúrufegrð, upp á sannkallaða náttúrudýrð. Þannig t. a. m. að Svínafelli í Öræfum, þar sem Brennu-Flosi bjó; að Núpstað vestan undir Lómagnúpi, hátignarlegasta fjalli, sem eg hefi séð á æfi minni, og hét sá bœr áðr að Lómagnúpi; víða á Síðu og í Skaftártungu. Það er reyndar einhver raunasvipr yfir allri þessari náttúrufegrð, fyrir þá sök, að eyðileggingin er allt í kring um þessa fögru bletti og blettirnir sjálfir flestallir berir og skóglausir. En hugsi maðr sér skóginn aftr kominn á þessa staði eins og áðr var, þá er örðugt að hugsa sér fullkomnari náttúrufegrð. Eyðileggingin í Skaftafellssýslu er nú út af fyrir sig, enda þykist eg vita, að þér, sem aldrei hafið séð hana, hafið þó eflaust heyrt henni við brugðið. „Föðurlandsvinirnir“ svo kölluðu á Íslandi myndi líka hiklaust samsinna því, að sá partr landsins hafi stórkostlega gengið af

sér síðan á fornöld sögu þjóðar vorrar. En það sé hrein og bein undantekning. Flestar aðrar sveitir sé að mestu leyti eins og áðr hafi verið. En þessu má til að neita. Landið allt er að smá-eyðileggjast, og jafnvel að stór-eyðileggjast, enda þótt sú eyðilegging sé víðast hvar mjög frábrugðin eyðileggingunni í Skaftafellssýslu. Eg ætla að hverfa burt snöggvast frá þeirri eyðilegging á landinu, sem stafar af eldgosum, jökulhlaupum og œðisgangi stórvatnanna. Eg ætla að nefna tvær sveitir á Austrlandi, þar sem ekkert þvílíkt amar að, aðra við sjó, en hina uppi í landi, sem dœmi upp á það, hvernig margar byggðir á landinu eru að fara. Önnur er Mjóifjörðr í Suðr-Múlasýslu, hin er Fljótsdalrinn í Norðr-Múlasýslu. Í Mjóafirði er ekkert undirlendi, heldr ganga brött fjöll og býsna há upp frá ströndunum beggja megin við fjörðinn. Fjallshlíðarnar eru víðast hvar ekki annað en skriður eða hart berg. En á stöku stöðum, einkum norðan megin við fjörðinn, má sjá, hvernig þær hlíðar hafa áðr verið, Þar standa nefnilega hingað og þangað grœnar, grasi þaktar torfur með blómlegu jurtalífi; en á stórum svæðum, á milli þeirra, er allr jarðvegr af sorfinn og urð ein eða glerhörð klöppin eftir. Og þann stutta tíma, sem eg dvaldi í nágrenni við sveit þessa meðan eg var seinast á Íslandi, tók eg eftir því, að þessar grastorfur voru allt af að minka, jarðvegrinn meir og meir að hrapa niðr úr þessum fjöllum, sífelld skriðuhlaup að koma úr fjallshlíðunum niðr í sjó. Fljótsdalrinn hefir lengi þótt einhver með fríðustu og beztu landsveitum á Ís-

landi. Hann er það fyrir Múlasýslu, sem Vatnsdalrinn er fyrirHúnavatnssýslu. Það er efsti og álitlegasti partrinn af Fljótsdalshéraði. Efsti hlutinn af Fljótsdal er upp frá botni Lagarfljóts, sem eiginlega er ekki annað en langt og mjótt stöðuvatn, myndað af því að árnar, sem í það renna þaðan að innan, lóna upp í djúpri dæld, er smágrynnist og dregst saman eftir því sem nær dregr sjó. Hinn hluti sveitarinnar er fjallshlíðin norðvestan megin Fljótsins æði-langt út eftir; þar á móti telst fjallshlíðin þar beint á móti, hinumegin Lagarfljóts, ekki lengr með hinum svo kallaða Fljótsdal, heldr er hún skoðuð sem sérstök sveit og nefnd Skógar, og heyrir sú fjallskinn nú til Suðr-Múlasýslu. Fyr um var hún, eins og eðlilegt er, talin sem einn hluti Fljótsdalsins. Í þeim hluta er Hallormsstaðarskógr, sem kallaðr er stærsti skógr á Íslandi. En það sem nú er kallað Fljótsdalr, er með öllu skóglaust. Er nú líka þessi fagra og tiltölulega veðrsæla sveit, Fljótsdalrinn, að eyðileggjast? Já, vissulega, þó að eyðileggingin þar, ef til vill, virðist fara hægt. Eg sá þar vegsummerki eyðileggingarinnar hvað eftir annað meðan eg dvaldi seinast á Íslandi. Eyðileggingin þar, og nú á eg sérstaklega við norðvestrkinn sveitarinnar með fram Fljótinu og kippkorn upp fyrir Fljótsbotn, er í því fólgin, að hlíðina er alla að grafa sundr. Jarðvegrinn er svo laus, einkum eftir að askan, sem Dyngjufjallaeldgosið um árið jós út yfir þetta svæði, blandaðist saman við hann, að smálækir, sem hlákur og rigningar mynda þar í hlíðinni, hafa átt hægt með að grafa sig niðr úr grasrótinni og hafa svo

holað sundr jarðlagið þar fyrir neðan, svo að víða hafa myndazt stórkostleg jarðföll, eftir að moldinni undan grassverðinum var sópað burt allar götur ofan í Fljótið eða árnar, sem í það renna. Vatnsrennslið, sem stafar af vetrarhlákum, gjörir mest að því að grafa jarðveginn sundr undir niðri, og þegar svo jörð þiðnar á vorum, dettr hin þunna jarðskorpa niðr, og þannig brotnar hlíð þessi upp, missir af jarðvegi sínum og eyðileggst ár frá ári. Og þessi eyðilegging hlýtr að halda áfram, þó að hægt kunni að sýnast fara, þangað til öllu er burtu sópað, sem vatnsrennslið vinnr á, og ekki er annað eftir en hörð mölin eða klettrinn. Þessi dœmi úr Mjóafirði og Fljótsdal sýna, hvernig þau byggðarlög Íslands, sem þó ekki eru undir sama númeri og Skaftafellssýsla, bæði með sjó fram og lengst upp til dala, eru að fara. Skaftafellssýsla er skoðuð einstaklegt svæði eyðileggingarinnar á Íslandi, og hana má skoða þannig. En þrátt fyrir allt og allt, sem þar er þegar að gjört í eyðileggingar-átt af eldi og vatni og ís, þá er þó sums staðar á því svæði fremr von um að náttúran gjöri aftr gott það sem hún hefir skemmt, heldr en í öllum þeim mörgu sveitum á landinu, sem að eðlisfari líkjast þeim tveim, er eg áðan tók til dœmis. Hvernig víkr því við? Því víkr svo við, að þar sem, eins og í Skaftafellssýslu víða, er mikið af marflötu undirlendi, þar er ekki alveg loku fyrir það skotið, að vötnin, sem þar renna og meira eða minna yfir það flóa, beri smásaman ofan í það nógu mikið af jarðvegi og gróðrarefni, til þess að þar fái á

endanum upp úr svörtum brunasandinum myndazt fagrar, grœnar grundir. Jökulhlaupin eða vatnsflóðin ber að vísu svo títt að, víðast hvar í Skaftafellssýslu, að jarðvegrinn á láglendinu, sem er að myndast þar, hefir ekki tíma til að festast og framleiða neitt verulegt gróðrarlíf. En þess eru þó dœmi í miðri eyðimörk Skaftafellssýslu, að grasi vaxið og frjótt beitiland, og jafnvel bezta heyland, er að koma upp úr sandauðninni. Þannig hafa furðustór svæði af Brunasandi vaxið upp og orðið að grœnum grundum á þessum seinasta mannsaldri. Svo Skaftafellssýslu eyðileggingin hefir talsverða von meðferðis; en í öllum þeim sveitum Íslands, þar sem viðlíka eyðilegging er á ferðinni, eins og í Mjóafirði og Fljótsdal, þar er engin slík von til. Fjöllin í Skaftafellssýslu eru náttúrlega ekki betr komin en önnur íslenzk fjöll. Meira að segja: sum fjöllin þar eru einhver hin hryllilegustu sýnishorn upp á alrúin íslenzk fjöll, upp á þann algjörða dauða, sem hin íslenzka fjallanáttúra sýnist vera dœmd til. Eg skal í þessu sambandi benda á fjöllin sum og jafnvel flest-öll í Lóni og Nesjum, rétt fyrir austan Hornafjörð. Reyðarártindrinn og Þorgeirsstaðatindrinn, sinn hvorumegin við Jökulsá í Lóni, geta aldrei gleymzt þeim sem einu sinni hefir á þá horft. Enginn hjalli, ekkert klettabelti, ekkert lækjargil, enginn minnsti gróðr, ekkert líf.—ekkert nema ein blá, helblá, snarbrött skriða með hnífjöfnum halla ofan frá toppi og niðr á jafnsléttu. Það eru gnapandi, sléttheflaðir, helbláir veggir, sem dauðinn hefir hlaðið þar á bak við byggðina.

Í þeim fjöllum er varla nein mold til, ekkert nema grjót, hart og saman hanganda undir niðri, en á yfirborðinu allt sundr molað. En svona fara öll fjöll á Íslandi, sum fyr, sum síðar. Og þeim fleygir víða á vorum mannsaldri áfram út í huggunarlausan dauðann, og íslenzka pólitíkin ræðr þar ekkert við.

Hver er nú orsökin til þess, að Ísland er svona hryggilega að eyðast? Aðalorsökin er ekki eldgosin eða jöklagangrinn eða vatnsflóðin,—ekki nema í Skaftafellssýslu og parti af Rangárvallasýslu; ekki heldr harðindin og hafísinn, hversu mikinn dauða sem þau vitanlega baka landinu, því það hvorttveggja var alveg eins í landnámstíð eins og nú. Og enn þá síðr dugir líklega að kenna dönsku stjórninni um þetta, ellegar margra alda verzlunareinokun. Aðalorsökin liggr í því, að Ísland er nú orðið gjörsamlega skóglaust land. Það sem gjörði Ísland fyr um að því fagra landkostalandi, sem það þá var, var þetta, að það var þá skógi vaxið bæði með sjó fram og upp til sveita. Svæðið næst Reykjavík var að vísu eyðiskagi þá eins og nú, eða lítið betra, en það var undantekning. Í heild sinni var landið fagrt og byggilegt í mesta máta. Annars hefðu hinir norrœnu forfeðr vorir bæði frá Norvegi, suðrparti Norvegs einmitt, og hinum brezku eyjum „fyrir vestan haf“, aldrei setzt þar að og unað sér prýðilega. Nú er allr skógrinn farinn, og svo liggr allr jarðvegrinn, að svo miklu leyti sem hann er ekki þegar eyddr, opinn fyrir algjörðri eyðilegging. Svo lengi sem fjallshlíðarnar og holtin og hæðirnar eru hrís-

vaxnar, helzt jarðvegrinn kyrr. Skógarrœtrnar og hrístágarnar binda allan jarðveginn saman. En þegar allt skógarkyns er upp rœtt, þá er allt á förum.

Nú skal eg aftr minnast ofr-lítið á Hallormsstaðarskóg. Þorvaldr Thoroddsen hefir látið telja sér trú um, að honum hafi svo og svo mikið farið fram í seinni tíð. En það er alveg þvert á móti. Hann hefir hríðgengið af sér einmitt síðan eg var barn. Séra Hjálmari Guðmundssyni, sem þá var prestr á Hallormsstað, var kennt um, að hann hefði farið svo illa með þann skóg. Hann lét nefnilega höggva talsvert mikið þar í skóginum, og svo var gott ef kirkjustjórnin íslenzka, sem líka ræðr yfir skógunum heima, setti ekki ofan í við hann fyrir bragðið; en hún gætti þess ekki, að skóg má eyðileggja með öðru enn þá verr, heldr en með því að höggva hann, svo framarlega sem hann er ekki alveg gjörhöggvinn. Hallormsstaðarskógr hefir, eins og allir skógar á Íslandi, lang-verst farið fyrir fjárbeit á vetrum, og hin mikla fjárbeit, sem sá skógr hefir orðið fyrir á síðustu áratugum, hefir nærri því alveg gjört út af við hann. Féð bítr einmitt limið af nýgræðings-skóginum, og svo kell hann, og svo er dauðinn og eyðileggingin komin. Innri partrinn af hlíðinni, þar sem Hallormsstaðarskógr áðr lá, sýnir bezt, hvað verðr úr fjalllandi, þar sem skógrinn hefir verið upp rœttr. Þar eru ýmist gróðrlaus moldarflög, eða, þar sem vatnsrennslið er búið að þvo moldina burt, harðar klappir. Og svona fer allr sá skógr, allt það fagra og inndæla skóglendi

sem áðr var. — Í mynninu á Skriðdalnum, austanmegin við Grímsá, er rennr í Lagarfljót utan við Vallanes, var, þegar eg var drengr, fallegt hrísland, sem kallað var Stóra-Sandfellsskógr. Eg var þar einu sinni í kolskógi skömmu áðr en eg fór í skóla. Nú er varla neitt eftir af þeim skógi nema nafnið, ef því er enn þá haldið. Og sumsstaðar á þessu svæði er skógrinn svo gjöreyddr á þessum fáu árum, að þar sést ekki neinn vottr þess, að þar hafi nokkurn tíma hríslendi verið, enda landið þar meira og minna farið að blása upp eða að verða að flagi. Það er fjárbeitin fremr öllu öðru, sem þar hefir farið með smáskóginn, og svo hefir eyðileggingin legið opin fyrir. Eg las fyrir nokkrum árum langa og merkilega ritgjörð í hinu alþekkta ameríkanska tímariti: **Harper's Monthly Magazine**, um skóga og eyðilegging þeirra, eftir einhvern náttúrufræðing, sem augsýnilega vissi, með hvað hann var að fara, og eg sannfærðist alveg af því. sem þar er sagt, um það, að Ísland er nú eins komið, eins og það er, fyrir það, að skógarnir þar hafa verið alveg eyddir, og eg sannfærðist líka um það, að það er fjárbeitin fremr öllu öðru, sem hefir eyðilagt hina íslenzku skóga. Það er þar sýnt með rökum, að hvert fjallaland, þar sem skógrinn er upp rœttr. er þar með lagt í vonlausa auðn. Eg man eftir tveim dœmum, sem ritgjörðarhöfundrinn nefndi þessu sínu máli til sönnunar. Annað var eitthvert stórt ákveðið pláz á Spáni, þar uppi á hálendinu; hitt var hérað nokkurt sunnan á Karpatafjöllum í Ungaralandi. Á báðum þessum svæðum hafði

skógrinn verið eyðilagðr einhvern tíma á miðöldinni, og síðan eru þar eyðimerkr eins dauðalegar og í Sahara væri eða á miðjum Mýrdalssandi; öll gróðrarmold burtu þvegin, öllum jarðarsverði af flett og tóm nakin klöppin eftir. Á flatt klapparland má auðvitað með ærnum kostnaði flytja mold og láta þar svo jarðveg myndast, eins og gjört hefir verið við eyna Malta í Miðjarðarhafinu; en í bröttum fjalllendum er þetta ómögulegt, því vatnsrennslið sópar þar moldinni óðara burt. Og þess vegna sýnist ekki vera neinn vegr til þess, að láta beinagrind hinnar íslenzku fjallkonu aftr fá hold og hamsa. Með því að gjöra út af við skóginn, sem áðr skrýddi Ísland milli fjalls og fjöru, hefir eigi að eins fegrð þess verið frá því tekin, heldr og sorfið svo að landkostum þess, að það má nú nærri því telja það eins og annað eyðisker. Með því að upprœta skóginn á Íslandi hafa menn gjört, eða eru menn nú óðum að gjöra það fyrst að flagi og því næst að aurskriðudyngju eða klapparholti. Mér kemr eigi til hugar að álasa hinni íslenzku þjóð fyrir það, þó að svona hafi farið eða sé að fara fyrir vesalings landinu. Eg sé yfir höfuð ekki, hvernig öðruvísi átti að fara, þegar eg held því föstu, sem eg býst við að allir hljóti að gjöra, að aðalbjargræðisvegr landsbúa hlaut að vera, hefir verið og er fjárrækt. Af hverju eiga menn að lifa til sveita á Íslandi, ef fjárrœkt má þar eigi stunda? Hvað væri varið í aðra eins jörð og Hallormsstað, ef, til þess að hlífa skóginum, ekki má hafa þar neina fjárrækt? Það er einmitt fjárræktarinnar vegna að sú jörð

er, eða öllu heldr hefir verið, svo mikils virði. Og sama er að segja um lang-flestar jarðir á Íslandi. Og þó er það einmitt, eins og nú er sýnt, fjárræktin, sem eyðileggr, eða eyðilagt hefir, skógana þar og þar með landið sjálft. Það hefði sjálfsagt mátt, hefði menn haft vit á, til stórra muna seinka eyðilegging skóganna á Íslandi, og þannig seinka eyðilegging landsins sjálfs. Það hefði talsvert mátt takmarka fjárbeit á nýgræðingsskóglandi. Og það hefði mátt og má enn planta skóg víðsvegar um landið, því á því er enginn efi, að úr því skógr, þótt smágjörðr sé, hefir vaxið þar villtr og vex þar jafnvel enn, þótt það sé sem ekkert að reikna á móti þeim skógi, sem þar eyðileggst, þá getr trjáplöntun prýðilega vel þrifizt þar. En með þessu er þó naumast hugsanlegt, að unnt sé að gjöra meira en að seinka talsvert eyðilegging einstakra bletta, sem enn þá standa óeyddir eða lítið skemmdir upp úr hafi eyðileggingarinnar.

En það er fleira að blása upp á Íslandi á yfirstandandi tíð, heldr en holtin og hlíðar fjallanna. Það er ekki að eins moldin í jarðveginum, sem er að missa það er forðum batt hana saman og hélt henni fastri ofan á grjótharðri beinagrind landsins. Hinn andlegi jarðvegr, þar sem hið íslenzka þjóðlíf er upp sprottið, er, að því er mér virðist, orðinn meira en lítið loslegr á vorri tíð. Það fer ekki hjá því, að landið sé, með tilliti til andlegs gróða, stórvægilega að blása upp,—nú, einmitt nú, meðan svo mikið er talað um frelsi og framfarir, félagsskap og upplýsing. Það kom einu sinni, fyrir svo sem hálfu öðru ári, alvarleg umkvörtun

um það frá einu mest útbreidda og þess vegna líklega einhverju alþýðlegasta blaðinu á Íslandi, „Fjallkonunni“, að hinni íslenzku þjóð væri stórum að fara aftr í siðferðislegu tilliti, dyggðirnar væri á yfirstandandi tíð óðum að dvína meðal Íslendinga. Og enn þá hefir mér vitanlega ekki ein einasta rödd á Íslandi látið til sín heyra til að mótmæla þessum vitnisburði eða hrekja hann. Menn virðast hafa samþykkt hann með þögninni. Eg veit þó, að til eru einstaka merkir menn á Íslandi, sem ekki eru á þessari skoðun og finnst hún ekki vera annað en **Pessimismus**, finnst hún stafa af því, að þeir sem hana aðhyllast, hafi sett upp svört gleraugu, og skoði allt, sem næst þeim er, í gegn um þau. Betr að svo væri; betr að neitun þessarar skoðunar ekki stafaði af því, að þeir sem henni neita, hafi sett upp græn gleraugu, sé of miklir **Idealistar** og **Optimistar,** eru orðnir svo áttavilltir, að þeim finnst aldarfarsstraumrinn renna upp á móti, þegar hann einmitt er á hraðri ferð niðr á bóginn, eða eins og þeir sem sundlar, þegar þeir ríða yfir straumhörð vatnsföll, og finnst hestrinn, sem þeir sitja á, óðfluga færast á hliðinni með sjálfa þá upp á móti straumnum, enda þótt þá sje óðum að reka niðr eftir ánni. Því miðr neyðist eg til að samsinna þessum áminnsta vitnisburði „Fjallkonunnar“ um þjóðina íslenzku. Mig sundlaði einu sinni, þegar eg fór yfir jökulvötnin íslenzku, en nú myndi mig ekki sundla, þótt eg ætti yfir þau að fara. Allt slíkt sundl var úr mér farið löngu áðr en eg fór seinast yfir Skeiðará eða Jökulsá á Breiðamerkrsandi.

Mann ætti eiginlega aldrei að sundla eftir að maðr er kominn á fullorðins aldr. Hvað fœri eg þá því til sönnunar, að minni eigin þjóð sé að fara aftr í siðferðislegu tilliti, að dyggðirnar sé að dvína hjá þjóðinni, að Ísland sé í andlegum skilningi að blása upp? Til þess tel eg það fyrst, að það ber svo stórkostlega á óþoli og skorti á þrautseigju hjá þeirri íslenzku kynslóð, sem nú er uppi, í samanburði við það er áðr fyr um einkenndi Íslendinga. Eg á hér ekki við það, að menn sé svo óþolnir í því að bera forna óstjórnarhlekki, því mér finnst einmitt, að menn uni mörgum hverjum þeirra langt um of vel; heldr á eg við það, að menn sýna almennt svo litla þrautseigju í því, að halda fram sínum eigin frelsismálefnum, eftir að þeir þó sýnast hafa opnað augun fyrir því, að þessi mál sé þeirra lífsspursmál. Það er oft tilfœrt eins og einkunnarorð Jóns Sigurðssonar þetta: „Aldrei að víkja“. Og minning þessa þrautseiga íslenzka mikilmennis sýnist nærri því vera tilbeðin landshorna Íslands á milli af leiðtogum almennings í pólitiskum og öðrum málum. En sú tilbeiðsla er ekkert nema orðin tóm. Menn trúa ekki á þetta orð: „aldrei að víkja“ nema í orði kveðnu, hafa það í rœðum og ritum að eins upp á stáz. Það er naumast annað en það sem á ensku er kallað **Mockery**, að slá þessu orði upp nú yfir svokallaðri frelsisisbaráttu hinnar íslenzku þjóðar. Það er fyrir æva-löngu meðal Íslendinga sjálfra orðin almenn trú, með tilliti til grundvallareiginlegleika hins íslenzka þjóðernis, að þeir sé yfir höfuð að tala seinir á sér, sé lengi að hugsa

sig um áðr en þeir kasti sér á eitthvað, en þegar þeir loksins sé búnir að átta sig, fyrir alvöru komnir á stað, þá sé þeir rétt óbilandi, fylgi sínu máli fram með sí-vaxandi þreki, gefist hér um bil aldrei upp. Þetta var líka einu sinni satt um þjóð vora. Þolið og þrautseigjan, það að síga allt af því meira á eftir því sem lengr var barizt fyrir einhverju málefni, það *var* einkenni Íslendinga forðum, en það var á þeim tíma, þegar landið var í sannleika í heild sinni fagrt og frítt, skógi vaxið milli fjalls og fjöru. En þetta *er ekki* íslenzkt þjóðareinkenni nú. Aðaleinkenni þjóðernisins er nú orðið alveg annað. Íslendingar eru nú orðnir undarlega fljótir til að gjöra nærri því hverja nýjung, sem er, að sínu málefni, og þeir geta þegar í fyrsta kasti oft farið hreint upp í blossa út af þessum sínum nýju málum. en úthaldið er ekkert. Þegar á þarf að herða, dofnar fylgið og áhuginn, og svo er hið nýja velferðarmál, sem fyrst þótti, látið „lognast út af“, eins og Eiríkr frá Brúnum komst að orði, eftir að hann var orðinn mormóni, um það þegar konan hans dó. Eg man eftir púðrinu, sem var í Íslendingum á Þingvallafundinum 1873. Menn voru þá svo rauðir, að Jóni Sigurðssyni, sem greinilega til æfiloka fram fylgdi þessu einkunnarorði: „aldrei að víkja“, ofbauð sá „mikli frelsis-roðinn rauði“. En allt var tómt nasaveðr, ekki á eftir fram fylgt einu einasta atriði af því sem með eldheitum áhuga var þar samþykkt. Það var eins og þegar krakkar hér í Ameríku eru að skjóta púðrkerlingum *(fire crackers)* 4. Júlí. En alvaran í opinberum málum gæti nú stórum hafa vaxið síðan

fyrir Íslendingum. Það eru 15 ár síðan 1873, og margt breytist á skemmri tíma. Já, en ekki hefir pólitiski áhuginn á Íslandi síðan vitund breytzt til batnaðar. Blöðin íslenzku hafa í tíma og ótíma prédikað það, að endrbót stjórnarskrárinnar, sem Ísland fékk 1874, væri brennandi áhugamál almennings og hér um bil hið eina mál, sem þjóðin væri um að hugsa. En samt fellr það mál alveg í gegn, eða er svæft, á síðasta alþingi. Nú, það er auðsætt, að þjóðin hugsaði og hugsar enn langt um minna um það mál, en blaðamennirnir hafa sagt hún hafi gjört og gjöri. Hún er á yfirstandandi tíð fremr öllu öðru að hugsa um það, hve erfitt hún á uppdráttar með sína bjargræðisvegi í þessum bágu kveljandi harðindaárum, sem hafa svo títt heimsótt Ísland á síðustu tíð. Og það er svo eðlilegt, og þjóðinni alls ekki láanda. Það eru í rauninni að eins fáeinir „pólitiskir“ menn, sem skoða þetta stjórnarskrármál sem aðalmál þjóðarinnar nú, hvort sem þetta á nú að álítast gott eða illt. En þessir fáeinu, *þeir* eru þó, mætti búast við, stálharðir, harðari nú en nokkru sinni áðr í trúnni á sína pólitík. *Þeir* hafa þó sjálfsagt sigið á í sinni pólitisku sókn eða vörn eftir því sem lengr leið á baráttuna. Trú *þeirra* er þó víst, nú orðið, svo mögnuð á þetta, sem þeir telja lífsspursmál þjóðar sinnar, að þeir, þegar því er að skifta, hika sér víst ekki við, að leggja eigin hagsmuni eða þægindi í sölurnar fyrir þetta sitt mikla málefni. En maðr verðr ekki var við neitt slíkt. Þegar þeim af þessum mönnum, er í embættum sitja, er af stjórninni, sem svona við einstök tæki-

fœri fer að hugsa um það, að embættin sé til almennings vegna, bannað að fara á þing, burt frá sínum embættum, þá mætti ætla, að þessir „föðurlandsvinir“, úr því þeir telja þingsetu sína svo ómissandi fyrir land og lýð, fœri á þing, hvað sem stjórnin segði og léti hana taka af sér embættin, ekki feitari en þau nú eru sum hver, ef henni svo sýndist. Nei, ekkert þessu líkt gjöra þeir. Embættin eru þeim miklu dýrmætari en þeirra eigin pólitiska sannfœring. Þeir láta ýmist reka sig heim aftr í embættin, ellegar hræða sig til að útvega embættum sínum einhverja málamyndarþjónustu meðan þeir sitja á þingi, til þess að þessi blessuð „brauð“ verði ekki af sér tekin, ellegar þeir útvega sér læknisattest og fara með þau á þing eins og skjöld til að hlífa sér undir. Blöðin illskast út af harðýðgi stjórnarinnar andspænis þessum „föðurlandsvinum“, en að sýna þessum þingmönnum sjálfum, hvað þeir ættu í slíkum tilfellum að gjöra sér og sínu máli til heiðrs, að benda þeim á, að þeir ætti nú að leggja „brauðin“ í sölurnar fyrir sannfœring sína, velferðarmál almennings,—það kemr þeim eigi til hugar.—Það sýndist ekki lítill áhugi hjá almenningi norðanlands fyrir Möðruvallaskólanum, þegar hann var stofnaðr um árið. Sú hugmynd var gripin á lofti og hjörtun virtust brenna af áhuga fyrir því að fá slíka menntastofnan í Norðrlandi. Menn fengu það fyrirkomulag á þeim skóla, sem þeir óskuðu eftir, og þann fyrir forstöðumann, sem pólitisku höfðingjarnir þar kusu sér. Fá ár eru liðin síðan skólinn komst á fót. En nú snýr al-

menningr að honum bakinu, varla neinn fæst til að ganga á hann, og hann er nú af blöðunum sjálfum talinn eins og versti landsómagi. Nálega hið sama er um búnaðarskólana að segja. Meðan verið var að koma þeim á fót, virtist almenningr vera uppi til handa og fóta út af bráðri og brýnnni nauðsyn þeirra. En að einu eða tveimr árum liðnum frá stofnun sumra þeirra, eins og t. a. m. Eyðaskólans, þykir allt vera **Humbug**. — Spenningrinn í mönnum út af stofnun verzlunarfélaga víðs vegar um landið, allt frá upphafi Gránufélags þangað til nú, er öllum vitanlegr. En sá spenningr hefir aldrei haldizt nema í byrjuninni, og svo hefir hvert félagið á eftir öðru annaðhvort hrunið, ellegar, eins og Gránufélagið nú, fengið á sig fullkomna ónáð almennings. — Það getr verið, að það sé satt, sem hið **idealistiska** skáld Grímr Thomsen segir:

„Táp og fjör og frískir menn
finnast hér á landi enn,
þéttir á velli, þéttir í lund,
þrautgóðir á raunastund“;

en það kemr að minnsta kosti ekki fram í þjóðmálabarátu Íslendinga, eins og hún hefir verið í seinni tíð.

En er það ekki von, segir almenningr, að fjörið hafi farið úr oss til þess að styðja þau verzlunarfélög, sem hjá oss hafa myndazt, og þær skólastofnanir, sem hjá oss hafa upp komizt, og yfir höfuð hinn ýmsa vísi til framfara, sem með harmkvælum hefir verið klakið hér upp, þar sem svo margir af forstöðumönnum þessara fyrirtækja hafa

brugðizt oss og málefni sínu, reynzt svo óáreiðanlegir? En þessu er naumast unnt að svara öðruvísi en svona: Ef það er víst að forstöðumenn hinna ýmsu fyrirtœkja þjóðinni til hagsmuna, frelsis og framfara, sem niðr hafa fallið eða eru að því komin að verða að engu, hafa reynzt svo óáreiðanlegir og svikið það traust, er upphaflega var til þeirra borið, þá bendir það ómótmælanlega á það, að óáreiðanlegleiki er orðið íslenzkt þjóðareinkenni á þessum síðustu tímum; hin forna **karakter**-festa er farin úr þjóðinni; því það liggr þó í augum uppi, að ekki hafa það verið verstu menn þjóðarinnar, sem völdust til þess að standa fyrir frjálsum fyrirtœkjum almennings, heldr þvert á móti yfir höfuð að tala, að öllu samtöldu, álitlegustu mennirnir, sem þjóðin átti í eigu sinni. Illri og ófrjálsri landstjórn verðr hér ekki um kennt, nema ef það skyldi vera að því leyti, að sú þjóð, sem lengi hefir haft öfuga, óvitrlega og rangláta stjórn yfir sér, ber að líkindum með tímanum menjar þess á **karakter** sínum, undir hvílíkri stjórn hún hefir staðið, hefir á sér andleg fingraför þeirra er hún hefir um langan aldr staðið undir. Það væri einsdœmi í mannkynssögunni, ef þjóð, sem eins illa hefir verið stjórnað í margar aldir, eins og allir viðrkenna að Íslendingum hafi verið stjórnað frá því fyrst er þeir gjörðust annarra þjóða undirlægjur, ætti í siðferðislegu tilliti, með tilliti til síns **karakters**, að standa jafnrétt eftir, eins og áðr en hún komst undir pressuna. Þetta er þó alls ekki viðrkennt af Íslendingum með tilliti til þeirra sjálfra. Íslenzk alþýða

þykist yfir höfuð að tala eins góð, eins og ætla mætti að hún hefði verið, hefði þjóðin á undanförnum öldum lifað undir heppilegri og vitrlegri stjórn. Almenningr veit og viðrkennir, að Íslandi hefir lengi, lengi verið herfilega illa stjórnað; en að þetta hafi haft nokkur ill áhrif á sinn **karakter**, það *vilja* menn ekki sjá og sjá það þess vegna ekki heldr Eg hefi bent á óáreiðanlegleik sem íslenzkt þjóðerniseinkenni nú, eða þó öllu heldr látið almenning sjálfan benda á þetta. Eitt íslenzka blaðið sagði nýlega, að Skaftfellingar væri áreiðanlegastir allra á Íslandi í því að greiða andvirði fyrir blöð þau er þeir keypti. Það er einkennilegt þetta. Skaftafellssýsla er sá hluti landsins, þar sem nútíðarupplýsingin íslenzka hefir einna sízt náð sér niðri. Hinir síðustu verða hér hinir fyrstu. Þeir sýnast, Skaftfellingarnir, standa á fornum merg, að því er áreiðanlegleik snertir, af því að þjóðmenningin nýja hefir svo lítið til þeirra náð. Landið sýnist helzt að blása upp í andlegu tilliti þar sem nýi stýllinn er mest útbreiddr. — Og loks vil eg nefna eitt atriði, sem óneitanlega heyrir til nýja stýl Íslands. Menn geta kallað það hvað sem menn vilja. Eg ætla ekki að gefa því neitt nafn, en að eins sýna, í hverju það er fólgið. Þegar forfeðr vorir sömdu hin klassisku sagnarit fornaldar vorrar, þá gjörðu þeir það án þess að ætlast til og án þess að geta búizt við að fá hina minnstu þóknun fyrir sín framúrskarandi ritstörf, og ekki voru þeir heldr að hugsa um að fá nokkurn heiðr fyrir þau. Þeir sömdu þau í kyrrþey, og varla neinn lét það sjást, hver væri höfundr

þeirra. Svo lítið hirtu þeir um að afla sér frægðar eða ábata með þessum sínum meistaraverkum. En nú, nú getr hálaunaðr embættismaðr á Íslandi naumast neina bók almenningi til uppfræðingar tekið saman, svo að hann ekki sárbæni stjórnina um fjárstyrk af almennings fé til þess að geta komið bókinni út. Yfir höfuð að tala er hlaupið í einhvern opinberan sjóð, hvað sem á að gjöra, svo framarlega sem það kostar nokkurt ómak eða nokkra peninga. Og þetta aldarfar er óðum að útbreiðast meðal bænda, því að varla er nú neins staðar hlaðinn svo túngarðsspotti eða yfir höfuð að tala gjörðar nokkrar tilraunir til jarðabóta, að ekki sé heimtað fyrir það eitthvert opinbert endrgjald.

Mér sýnist nú allt þetta, sem hér er talið, benda til þess, að hinn andlegi jarðvegr á Íslandi sé ekki í stórt minni hættu, heldr enn sá jarðvegr, sem þar er enn í holtum og hlíðum fjallanna. Og mér sýnist því eigi síðr þörf á því, að eitthvað væri gróðrsett í þessum andlega jarðvegi, sem gæti fest hann og bundið hann saman, heldr en í þeim jarðvegi, sem á að gefa fénaði landsins fóðr. Það er nú líka óneitanlega verið að planta eitthvað í hinn andlega íslenzka jarðveg þar heima. Skólarnir þar eins og annarsstaðar eru sífellt að eiga við hinn andlega jarðveginn. Þar er stöðugt verið að sá einhverju sæði, og þeir sem þar sá, gjöra það eflaust í bezta skyni og þeir sá vafalaust mörgu góðu og nytsömu, líklega hver um sig því bezta, sem þeir eiga, eða sem þeir vita að þeir eiga, í eigu sinni. Og þá má ekki

gleyma blöðunum, sem með hverjum pósti senda sín ýmsu frækorn út um þvert og endilangt Ísland. Embættismennirnir eru að sá. Allir eru í rauninni að sá. Mörgu góðu sæði er vissulega sáð á Íslandi, en samt viðrkennir þjóðin sjálf fyrir munn síns útbreiddasta blaðs, að dyggðirnar sé að dvína, landið sé andlega að blása upp. Eitthvað meira en lítið er að, fyrst jarðvegrinn festist ekki, **karakter** manna batnar ekki, heldr þvert á móti fer hríðversnandi, hvernig sem sáð er og hversu mörgu góðu sem sáð er.—Það er til frækorn, sem Íslendingar eiga, en sem langt um of lítið er sáð þar, og sem, ef því væri nógu rækilega sáð, myndi festa allan jarðveginn og koma hinum öðrum góðu plöntum, sem verið er að rembast við að gróðrsetja þar, til þess að ná fullkomnum og blessunarríkum þroska, og um leið drepa niðr illgresi hviklyndisins, óáreiðanlegleikans og eigingirninnar í **karakter** þjóðarinnar. Það er frækorn guðsríkis, sem kristindómrinn hefir meðferðis. Og nú vitna eg í hinn mikla sálm eftir nútíðarinnar mesta sálmaskáld á Íslandi, séra Valdemar Briem :

„Í fornöld á jörðu var frækorni sáð,
það fæstum var kunnugt, en sumstaðar smáð.
Það frækorn var guðsríki', í fyrstunni smátt,
en frjóvgaðist óðum og þroskaðist brátt“.

„Og frækornið smáa varð feiknarstórt tré,
þar fá mátti lífsins í stormunum hlé;
það breiddi sitt lim yfir lönd, yfir höf,
á lifenda bústað, á dáinna gröf“.

Þessu frækorni er of lítið sáð nú á tímum meðal hinnar íslenzku þjóðar. Vitaskuld, það er til kirkja, og það lútersk kirkja, á Íslandi; þar er prestaskóli, þar sem merkir og gáfaðir menn eru kennarar, og, í samanburði við fólksfjölda, ákaflega margir prestar á Íslandi. En kirkjan íslenzka er með svo nauðalitlu lífi; hún dugir ekki í sínu nú veranda ástandi til þess að festa jarðveginn. Landið blæs andlega upp svo lengi sem hún fær ekki í sig nýtt líf. Enda talar sálmaskáldið líka um „isköld él“, er nú gangi yfir kirkjuna, „og orma, sem vilja þess [kristindómstrésins] rót naga' í hel“. Og þó að Ísland sé annars ekki mikið ormaland, þá ná þó andlegir ormar til Íslands og hinnar íslenzku kirkju, og aldrei eins og nú. Það er einkennilegt, að það blaðið íslenzka, sem helzt hefir bent á siðferðisgallana í hinu íslenzka þjóðlífi, „Fjallkonan“, hefir jafnframt öðru hverju verið að krukka í kristindóminn. Það heyrir til nýja stýlnum á Íslandi, að hafa horn í síðu kristinnar trúar. Jafnvel einn gáfaðr prestr á Íslandi getr ekki setið á sér, þegar hann er að taka saman rit um auðfræði, sem sýndist ætti ekki að þurfa að reka sig neitt á kirkjuna, að gefa kristindóminum ölnbogaskot, og til þess að koma þessu riti á prent veitir landstjórnin, sem er sama sem kirkjustjórnin, opinberan styrk. „Eldr er í endum. eitr er í miðju“, og því er ekki furða, þó að Hannes Hafstein kveði: „Kirkjan. kirkjan—hún brennur“. Hann hefir séð, að íslenzku kirkjunni að minnsta kosti hefir legið við að loga upp á þessum síðasta tíma. — Að vera sár út af því að dyggðirnar sé

að dvína í þjóðlífinu, en hafa þó ýmigust á kristinni trú, sem vitanlega er hin langbezta trygging, er fengizt hefir og fengizt getr, fyrir því, að dyggðugt líf haldist við, það er undarleg, herfileg mótsögn. Eg vildi þér læsuð ritgjörð eina í hinu enska tímariti **The Nineteenth Century** fyrir síðastliðinn maímánuð eftir gamla Gladstone, Bretlands og líklega heimsins mesta stórmenni á vorri tíð. Það er ritdómr um skáldsöguna **Robert Elsemere** eftir **Mrs. Ward.** Þar er svo áþreifanlega sýnt, hve fávíslegt það er að ætla, að siðalærdómr kristindómsins, sem nú allir vantrúarmenn með viti viðrkenna að sé hinn œðsti siðalærdómr, sem mannkyninu er kunnugr, fái haldizt í mannlegu félagi eftir að hinum kristna trúarlærdómi er burtu kippt. Að kalla þá er þessari fávizku halda fram, skynsemistrúarmenn, það er þó eitthvað kátlegt. Óvitstrúarmenn ætti heldr að kalla þá. En hví eru þeir orðnir svona öfugir í hugsunarhætti sínum, þessir menn? Eigum vér að varpa allri sökinni á þá sjálfa og segja, að vonzku hjartna þeirra sé eingöngu um að kenna óbeit þá er þeir hafa á kristindóminum? Þá værum vér ranglátir. All-mikið af sökinni er hjá kirkjunnar eigin mönnum. Skortrinn hjá þeim á lifanda kristindómi— það er hann, sem á svo mikinn þátt í því, að vantrúin eflist og þar með fylgjanda það óvit, er harmar yfir hnignanda drengskap og hlakkar um leið yfir dvínandi trú á evangelíum kristindómsins. Kirkjan íslenzka í því dauðsjúka ástandi, sem hún er, hefir vafalaust stutt að þessu óviti hjá vorrar þjóðar vantrúarmönnum. Ástand kirkjunnar hefir

leitt þetta óvit yfir marga. Ísland blæs upp fyrir þá sök, að svo ófullkomlega og aumlega er sáð í hinn íslenzka jarðveg því sæði, er eitt, *eitt* fær hann fest. Skógrinn er upp rœttr, ormar naga rœtr lífstrjánna, og landið, andlega talað, er að verða að flagi.

Þegar eg man fyrst eftir mér á æfi minni, þá átti eg sem lítið barn heima að Kálfafelli í Fljótshverfi, eða Skógahverfi, eins og sveitin hét fyrrum, rétt í miðbiki Skaftafellsþings, sem var svo yndislegt til forna, en nú svo raunalega eyðilegt. Bœrinn veit á móti suðri. Í sjóndeildarhringnum, sem blasir við manni, þegar komið er út úr bœjardyrunum, ber, eða bar þá, fyrir augað þar úti á láglendinu grastorfu eina, sem eg sérstaklega man eftir, litla ummáls, en rísandi talsvert hátt upp af grundunum eða völlunum þar allt um kring. Þessa torfu var allt af að blása upp; stormar og úrfelli voru allt af að sverfa að rauðum rofbakkanum, sem myndaði brún torfunnar. Hún mínkaði því auðvitað með ári hverju; og það er vel líklegt, að ekkert eifi sjáist nú lengr eftir af henni. Þessi torfa frá mínu fyrsta barnsminni minnir mig á nokkuð í þeim íslenzka sjóndeildarhring, sem nú er fyrir augum mér. Það er fullorðna kynslóðin íslenzka, beggja megin Atlanzhafs, að því leyti sem forn drengskapr er frá henni farinn, að því leyti sem blástr vantrúar og guðleysis hefir á henni hrifið. Ef einhver kœmi nú með þá hrakspá fyrir meira hlutanum af hinni fullorðnu kynslóð vorri, að hann hlyti alveg að blása upp, að meginið af hinum fullorðna íslenzka lýð gengi

sömu örlögum á móti eins og grastorfan fyrir sunnan Kálfafell, þá segði eg: Allt Ísland er þó ekki andlega blásið upp fyrir því. Það var grasi vaxið undirlendi í kring um torfuna. Eg man ekki til, að *það* væri farið að blása upp, þegar eg fór þar seinast um, og það blési aldrei upp ef þar væri nú skógr plantaðr. Œskulýðr vor, barnahóprinn íslenzki beggja megin hafs, samgildir undirlendinu umhverfis hina uppblásnu torfu. Fyrir hann er þó lífs von, hvernig sem fara kann fyrir öllum þorra fullorðna fólksins. En þó því að eins viss lífs von, að séð verði í tíma um, að ekki fari um hann eins og gömlu grastorfuna. Plöntum tré, lífstré kristindómsins í undirlendi œskulýðsins. Plöntum hér skóg á preríunum umhverfis bústaði vora til prýðis og til skjóls í stormunum og vetrarhríðunum og á móti hinni steikjandi sól miðsumarmánaðanna. En um það hugsi menn fremr öllu öðru að planta lífsins tré í hin ungu hjörtu vors íslenzka þjóðflokks, til þess að Ísland hið unga hér og hinumegin blási ekki upp siðferðislega og andlega.

---

# Bókverzlun Sigfúsar Eymundssonar

er eigandi að eða hefir aðalumboð eigenda á þessum bókum:

| | Kr. | au. |
|---|---|---|
| **Bólu-Hjálmar:** *Kvæði.* Með æfisögu. Útg. Hannes Hafstein. 1888. Í skrautbd. | 2 | 50 |
| **Dönsk Lestrarbók** með *Orðasafni.* Eftir *Jón Þórarinsson* og *Jóh. Sigfússon.* Innbd. | 2 | 50 |
| **Formálabók** (Magn. Stephensens og L. E. Sveinbjörnsons) (*til 1. jan 1889 3 kr. 75 au.*). . . . . . . . Í gyltu bd. | 4 | 00 |
| **Gestr Pálsson:** Þrjár sögur . . . . . . . heft | 1 | 00 |
| **Gröndal, Ben.:** *Efnafræði.* (Áðr 50 au.). Niðrsett | 0 | 25 |
| **Halldór Briem:** Kennslubók í Ensku. Innbd. 2,35 og | 2 | 50 |
| **Helga-Postilla.** Með mynd. . . . . . . . heft | 3 | 00 |
| Í gyltu alskinnni innbundin | 5 | 00 |
| **Jón Bjarnason:** Ísland að blása upp. Fyrirlestr. | 0 | 25 |
| **Jón Ólafsson:** *Enskunámsbók* fyrir byrjendr (kend í 1. bekk latínuskólans síðan 1882); heft 1,00. Innbd. | 1 | 25 |
| ———: Vestrfara-Túlkr. *Enskunámsbók* fyrir *alþýðu,* til að læra málið *tilsagnarlaust.* 1888. Innbd. 1,25 og | 1 | 35 |
| ———: Spánnýtt *Stafrófskver* með myndum. 1887. . . . . . . . . . . Innbd. | 0 | 25 |
| ———: Um Vestrheimsferðir. Svar til Ben. Gröndals . . . . . . . . . . heft | 0 | 25 |
| **Matth. Jochumsson:** *Ljóðmæli,* (til 1. jan. 1889 3,50) . . . . . . . . Í skrautbd. | 3 | 75 |
| **Ólöf Sigurðardóttir:** Ljóðmæli og ein smásaga; heft | 0 | 50 |
| **Sálmabókin nýja** með ýmsu verði eftir bandi. | | |
| **Steingr. Thorsteinsson:** *Ljóðmæli.* Í skrautbd. | 3 | 00 |
| **Tegnér:** Friðþjófssaga. Þýð. eftir Matth. Joch. 2. útg. . . . . . Í skrautbd. | 2 | 00 |
| **Vitnaframburðr** í máli Kr. Ó. Þorgrímssonar. Niðrsett | 0 | 10 |

☞ Þeir sem kaupa: *Jón Ólafsson: Um Vestrheimsferðir, svar til Ben. Gröndals* (25 au.) og *Vitnaframburð í í máli Kr. Ó. Þorgrímssonar* (10 au.), fá **ókeypis:** *Efnafræði Bened. Gröndals* (sem annars kostar 25 au.).

## F. EYMUNDSSONAR

hefir til sölu meðal annars þessar bækr:

| | Kr. | au. |
|---|---|---|
| **Björn Gunnlaugsson:** *Njóla.* 3. útg. Rvk. 1884. heft | 0 | 60 |
| **Björn Kristjánsson:** Stafróf söngfræðinnar. heft | 1 | 10 |
| **Eir. Briem:** *Reikningsbók* I. 4. útg. 1883. innbd. | 1 | 00 |
| ——— · ——— II. 2. útg. 1880. innbd. | 1 | 70 |
| **Eyrbyggja saga.** Akreyri. 1882. . . . . . innbd. | 1 | 40 |
| **Elín Briem:** Kvennafræðarinn I. (*Matreiðslubók*). heft | 1 | 25 |
| **Gröndal, Ben.:** *Kvæði.* I. Rvk. 1856. heft. *niðrsett* | 0 | 20 |
| **Halldór Briem:** *Goðafræði* Norðrlanda heft | 0 | 50 |
| **Hannes S. Blöndal:** Nokkur *Kvæði.* 1887; heft | 0 | 50 |
| **Helgi Hálfdánarson:** *Barnalærdómskver.* innbd. (Selt að eins gegn borgun út í hönd). | 0 | 60 |
| **Ingib. Skaftadóttir:** *Kaupstaðarferðir.* Saga. heft | 0 | 50 |
| **Jónas Helgason:** *Söngvar og kvæði* V. . . heft | 1 | 00 |
| **Jón Þ. Thoroddsen:** *Piltr og Stúlka.* 2. útg. heft | 1 | 50 |
| **Páll Jónsson:** *Náttúrusaga.* (Yfirlesin af Þorv. Thoroddsen). . . . . . . . . innbd. | 2 | 50 |
| **Páll Sigurðsson:** *Aðalsteinn.* Saga (412 bls.); heft | 1 | 25 |
| **Róbinson Krúsó.** Með myndum. innbd. 1,25; 1,35 og | 1 | 50 |
| **Stgr. Thorsteinsson:** *Þýzk lestrarbók* með orðasafni. . . . . . . . . . . innbd. | 3 | 75 |
| **Sveinbj. Egilsson:** *Ljóðmæli,* með mynd, heft. *niðrs.* | 1 | 00 |
| **Svanhvít.** Útlend ljóðmæli í ísl. þýðingum eftir Matth. Jochumsson og Stgr. Thorsteinsson. . . . . . . . heft, *niðrsett* | 0 | 75 |

**Allar bækr Bókmentafélagsins**
**Allar bækr Þjóðvinafélagsins**
**Allar** forlagsbækr Ísafoldarprentsmiðju, Sig. Kristjánssonar, Kr. Ó. Þorgrímssonar og Frb. Steinssonar
**Allar aðrar íslenzkar bækr,** sem til sölu eru
} fást í bókverzluninni við frumverði

**Alls konar útlendar bækr.** Það sem ekki er til í búðinni, er pantað fljótt og áreiðanlega.

**Pappír** og **ritföng** alls konar er **ódýrara** í þessari verzlun, heldr en hjá *nokkrum* öðrum hér á landi.

---

